


III. Winnipeg, Man. Nr. 8.

# GILDI GAMLATESTAMENTISINS.

(Athugasemdir við "Aldamót" 1893.)

---

Framh.

Á bls. 42 og 43 fer séra Friðrik að útskýra dóma drottins. Hann segir: "Milda og blessaða drottins höndin, sem heldur um stjórnvöl sögunnar, vann það *kærleikans verk*, að útrýma gjörspiltum þjóðflokkum til þess, að meðvitundin og trúin á sannan guð fengi griðastað á jörðunni." Og seinna, á bls. 43, segir hann: "Fyrir það, að Gyðingar háðu þessa bardaga, birtist kristindómurinn í sögu mannkynsins."

Og séra Friðrik dirfist að kalla annað eins og þetta kærleiksverk, að afmá heilan þjóðflokk af jörðunni! Var það kærleiksverk við þjóðflokkinn sjálfan, sem afmáður var? Ef að ég t. d. réðist á séra Fr., tæki hann fyrst og lúberði hann, svo blóðið lagaði um hann allan, dræpi fyrir augum hans konu hans og börn og loksins líflèti hann sjálfan með kvölum og hörmungum, hver mundi vilja kalla slíkt kærleiksverk við séra Fr. Mundi hann sjálfur eða konan hans eða börnin kalla það kærleiksverk? Mundi nokkur maður finnast, sem ekki skammaðist sín fyrir að kalla slíkt kærleiksverk? Nei, það væri ómögulegt annað en kalla slíkt örgustu mannvonsku og fantaskap, hver sem það gerði. Þetta er alveg sams konar dæmi og hitt, að drepa og eyða þjóðum Gyðingalands. Ætli að konurnar þunguðu, sem ristar voru á kviðinn, hafi kallað það kærleiksverk? eða börnin, sem hermennirnir hentu á milli sín á spjótsoddunum?

Að kalla þetta kærleiksverk segi ég, að sé að svívirða réttlæti og kærleika, svívirða allar góðar og göfugar hugmyndir. En prestarnir blessaðir reyna, að líkindum, að snúa sig út úr þessu með sínum vanalegu vöflum og sjónhverfingum. Mér skyldi ekki koma á óvart, þótt þeir segðu að það yrði að skoða þetta öðruvísi, það yrði að skoða þetta með tilliti til þeirra, sem hefðu gott af því. Það yrði að líta til hinna óbornu kynkvísla jarðarinnar, þær hefðu haft svo mikla blessun af þessu verki, að það hefði, hvað þær snerti, verið sannarlegt, guðdómlegt, heilagt, blessunarríkt kærleiksverk!!! En fyrst og fremst er það nú hlutur, sem menn greinir á um, það er *alveg ósannað* ; og svo er hitt, að verkið var alla daga fanta og fúlmenna verk, hvað sem afleiðingar þess urðu. Í hæsta lagi hefði mátt segja, að þarna hefði verið framið grimdarverk í góðum tilgangi. — En vér skulum taka annað enn ljósara dæmi.

Vér vitum það, að Tyrkir hafa nýlega unnið grimdarverk í Armeníu á kristnum þegnum sínum. Væri það nú rétt af hinum siðuðu þjóðum, að ganga allar í bandalag og fara eins með Tyrki, eins og Gyðingar fóru með Cananaansbúa, deyða þá, karla konur og börn og láta engann lifandi undan komast? Mundi nú nokkur góður maður vilja eiga farsæld sína þessu verki að þakka? Meðal hinna mörgu millíóna Tyrkja hljóta að vera góðir menn innanum, saklausir menn og konur og börn, eins og voru hjá Canaansmönnum. Þeir sem vilja byggja velferð sína á öðru eins níðingsverki og þessu, — þeir geta ekki verið góðir menn. Þeir sem stæra sig af því, að farsæld þeirra sé bygð á öðru eins verki, þeir sem lofa guð fyrir það, að hann hafi gert þetta fyrir þá sjálfa, — fyrir þeim mönnum getum vér ekki borið virðing, og ekki kallað góða menn, hvort sem þeir eru kristnir eða ekki. Þeir eru trúaðir, vér vitum það vel, en oss hryllir við kærleikshugmynd þeirra.

En nú segir séra Fr., að guð hafi unnið þetta kærleiksverk af því, að þjóðir þessar "vildu banna hinni útvöldu þjóð drottins að verða öllum þjóðum heimsins til blessunar." Það er dirfska, sem fáir aðrir en klerkar þora að beita, að slá öðru eins fram án nokkurrar hinnar minstu sönnunar. Hvaða sannanir hefir séra Fr. fyrir því, að Canaansbúar vildu banna Gyðingum að verða öllum heiminum til blessunar? Ef að Gyðingar hefðu setið fyrir í Canaanslandi og Canaansbúar komið að og ráðist á þá með báli og brandi og drepið þá alla, þá hefðu klerkar snúið blaðinu við og sagt, að Canaansmenn hefðu unnið níðingsverk á Gyðingum. Canaansbúar sátu fyrir í landinu, það var eign þeirra. Þess er hvergi getið, að þeir hafi

verið neinir ófriðarseggir; þeir voru eflaust eins friðsamir og góðir menn og Gyðingar, að minsta kosti minni vígamenn Þeir skiftu sér ekkert af Gyðingum, og lögðu engar hindranir í veg þeirra. En Gyðingar komu og réðust á þá og létu sér ekki nægja, að ræna þá öllum eignum þeirra, gripum þeirra öllum og löndum, heldur strádrápu þeir þá niður og það oft með hryllilegum og viðbjóðslegum kvölum.

Þar sem þetta og annað eins er talið kærleiksverk, þar sem guð er lofaður fyrir þetta í kærleikans nafni, þar er siðferðishugmyndin ekki á háu stigi, og engin furða þótt þar sé köld undiraldan.

Svo segir hann ennfremur: "Fyrir það að Gyðingar háðu þessa bardaga, birtist kristindómurinn í sögu mannkynsins." Ráðalítinn telur séra Fr. spekinnar og réttlætisins guð, að hann skyldi ekki þekkja nein önnur ráð til þess, að koma fram kærleiksverki sínu í heiminum, en þau, að drepa og myrða heila þjóð. Þetta segjum vér unitarar, að sé að svívirða guð, og teljum oss skylt að andæfa slíkum ásökunum. Vér hefðum álitið það miklu veglegra og guði samboðnara, ef hann hefði breytt anda og hugarfari þjóðanna og látið þær verða með hverjum deginum, hverri öldinni mildari, friðsamari og kærleiksmeiri. Það er einhvern vegin svo vandræðalegt, að láta fylling kærleikans neyðast til þess, að myrða heila þjóð, til þess að geta komið fram einhverri góðri hugmynd.

Þá segir séra Fr. enn á bls. 43 (hún er bágborin, þessi blaðsíða, ég get ekki annað sagt): "Hefði afguðadýrkunin unnið sigur yfir Jehóvadýrkuninni, mundu þeir, sem nú standa fremstir í heiminum og bera alla mannkynssöguna á herðum sér, standa álíka hátt og hinar allra aumustu heiðingjaþjóðir." Með hvaða rétti getur séra Fr. sagt þetta? Er hann virkilega svo ófróður í sögu mannkynsins? Hvaða kristindóm þektu Grikkir hinir fornu? Og þó stóðu þeir langtum fremri Gyðingum að listum og öllum vísindum, langtum fremri þeim að öllu siðgæði. Þeir voru langtum fremri Gyðingum að allri mannúð. Er það kristindómurinn, sem hefir fleygt Japansbúum áfram eins og nú er raun á orðin. Voru það kristnar hugmyndir sem réðu sjálfstjórnarskipun Íslendinga hinna fornu? Séra Fr. tekur svo djúpt í árinni, að hann segir, að þeir sem nú eru fremstir í heiminum, mundu vera sem hinar aumustu heiðingjaþjóðir; hinir ættu þá að vera þar einhverstaðar langt fyrir neðan, sjálfsagt vera orðnir að dýrum. Þetta er öfugur Darwinismus. — Það lítur út fyrir, að séra Fr. hafi aldrei heyrt getið um aryanska þjóðflokkinn

Það er aryanska blóðið, aryanski heilinn, sem gjört hefir heiminn að því, sem hann er, en það á ekkert skylt við Gyðinga.

Þá segir séra Fr. á sömu bls., að "gegnum alt nýjatestamentið andi til vor hið sama guðdómlega réttlæti, heilagleiki og kærleiki, sem einkenni alla opinberunarsögu gamlatestamentisins." Þetta er að því leyti rétt, að nýjatestamentið er framhald af hinu gamla, bygt á því og óaðskiljanlegt frá því. Það er að því leyti rétt, að þeir, sem rituðu nýjatestamentið, voru Gyðingar með Gyðingatrú og Gyðingahugmyndum. Þess vegna liggur til grundvallar fyrir nýja testamentinu hinn sami, grimmi, gyðinglegi andi, nokkuð þýðari og mildari, en þó á sumum stöðum ákaflega heiftugur. Sem dæmi upp á þennan kærleiksanda, sem séra Fr. finst svo mikið til um, skal ég taka að eins eitt atriði, þótt ótalmargt fleira mætti til tína : "Farið frá mér bölvaðir í þann eilífa eld sem búinn er djöflinum og hans árum." Ekki einusinni nokkurstaðar í gamlatestamentinu er tekið svona djúpt í árinni. Hvar í gamlatestamentinu er getið um svo mikla heift og ósvegjanlega grimd, að menn eða guðir vilji ekki láta sér nægja, að kvelja óvini sína tímanlegum kvölum sem einhverntíma enda, en heimti handa þeim endalausar, eilífar vítiskvalir ? Hvar í heiminum er sú þjóð, sem hafi hugsað sér aðra eins hegning og þessa ? Gyðingar og hinar kristnu þjóðir eru þær einu þjóðir í heiminum sem hafa haft þessar hugmyndir. Helvítiskvalir heiðnu þjóðanna áttu æfinlega að enda einhverntíma ; hér eru þær eilífar óendanlegar um allan heims aldur. Ég vil taka það fram hér, að ég trúi því ekki, að jafn elskulegur maður og Kristur, hafi sagt þetta, þótt hann væri Gyðingur og alinn upp í gyðingatrú og við gyðinglegar hugmyndir. Ég segi, að postularnir hafi logið þessu upp á hann. Og guðdómlegan kærleika get ég ekki kallað þetta, því fer fjærri.

Svo segir séra Fr. "að mildin og miskunsemin sé á hærra stigi í sögu Ísraelsmanna, en nokkurstaðar ella hjá heiðingjaþjóðunum." Að segja annað eins og þetta er lítt fyrirgefanleg ósvífni,—að segja þetta þvert ofan í öll hryðjuverk Ísraelsmanna, slátrun þeirra á börnum og brjóstmylkingum, dæmi þeirra Jehú og Davíðs, fórnfæringarkenning kyrkjunnar, sem klerkar segjast hafa úr ritningunni, og ótal fleira. Veit ekki séra Fr., að til eru trúbrögð mörg hundruð árum eldri, en kristnu trúbrögðin, þar sem mildi og miskunsemi er á miklu hærra stigi, en bæði hjá Gyðingum og kristnum, þar sem glæpir eru færri, þar sem það meira að segja er talið grimt verk, að deyða dýrin, nema neyðarvörn sé ? Það er hjá Buddhatrúarmönn-

um. Það er siðferðislega rangt, að umhverfa þannig sögulegum sannindum. Það dugar í bráð við þá, sem lítið eða ekkert vita, en tímarnir eru aðrir nú en áður fyrri, svo að það gengur ekki lengi. Það er ekki eins létt að teyma menn á eyrunum núna, eins og áður fyrri, nema þá allra vesælustu sauðina.

Svo segir höf. á bls. 44: "Ekkert einasta af boðum drottins skildu þeir svo, sem gæfi það þeim heimild til að sýna öðrum hefnigirni og grimd, heldur þvert á móti." Til þess að hrekja þetta og sýna, að það sé *ekki satt*, mætti fylla Dagsbrún í heilt ár að minsta kosti. Ég ætla að eins að taka eitt dæmi. Guðsmaðurinn Móses hafði reiðst við Amalekíta einhverntíma, þegar Jósúa var búinn að fella þá með sverðseggjum. Sagði þá drottinn við Móses (2. Mós., 17., 14.): "Rita þú þetta í bókina til minnis og minn Jósúa á, að ég vilji sannarlega afmá minningu Amalekíta af jarðríki." Þá reisti Móses hermerki og sagði: "drottinn vill halda ófrið við Amalekíta um aldur og æfi." Svo aftur seinna (í 5. Mós. 25., 17.—19.) minnir Móses þá aftur á þetta og endurnýjar drottins boðið, "að þeir skuli með öllu afmá Amalekíta af jarðarhnettinum," og leggur ríkt á við þá "að gleyma því ekki." Og enn 400 árum seinna, eða þar um, kemur guðsmaðurinn Samúel til Sáls fullur andagiftar og segir: "Svo segir drottinn allsherjar — — — Legg þú nú af stað í orustu við Amalek og eyð öllu, sem honum tilheyrir og þú skalt ekki hlífa honum, og drep þú svo *mann sem konu, svo barn sem brjóstmylking, svo uxa sem sauð, svo úlfalda sem asna.*"

Þarna er nú eitt drottins boðið; drottinn guð talar þarna sjálfur, og það er beinlínis tekið fram, að það sé í hefndarskyni. Sál gegnir þessu boði og fer á móti Amalekítum og strádrepur þá niður. Hvar stendur nú séra Friðrik uppi, er hann segir, að ekkert einasta af boðum drottins hafi Gyðingar skilið svo, sem gæfi það þeim heimild til að sýna öðrum hefnigirni og grimd? En *ótalmörg* samskonar dæmi mætti koma með úr gamlatestamentinu, ef rúmið leyfði.

Það er annars hreinasta furða, að prestum skuli enn haldast uppi að prédika það fyrir mönnum, að öll þessi viðbjóðslegu hryðjuverk, sem biblían segir frá, hafi verið unnin að boði guðs — að þau séu nokkurskonar spegill af guðdómlegum kærleika og réttlæti! Eigum vér að taka oss þessa mildi til fyrirmyndar og líkja eftir henni? Eða er það meiningin, að sýna oss guð svo vondan og grimman, að oss skuli hrylla við honum?

Framhald næst.

# ÆTTARTALA KRISTS.

Sem sýnishorn af guðdómlegum innblæstri nýjatestamentisins, setjum vér hér ættartölu Jesú Krists, eftir þeim Mattheusi og Lúkasi, og er hún talin upp til Davíðs :

| *MATTHEUS:* | *LÚKAS:* |
|---|---|
| 1. Jósep. | 1. Jósep. |
| 2. Jakob. | 2. Eli. |
| 3. Mattan. | 3. Mattat. |
| 4. Eleasar. | 4. Levi. |
| 5. Elíúð. | 5. Melki. |
| 6. Akeim. | 6. Janna. |
| 7. Sadók. | 7. Jósep. |
| 8. Asór. | 8. Matatias. |
| 9. Eliakeim. | 9. Amos. |
| 10. Abiúd. | 10. Naúm. |
| 11. Sóróbabel. | 11. Esli. |
| 12. Salatiel. | 12. Naggai. |
| 13. Jekónias. | 13. Maats. |
| 14. Jósías | 14. Matatias. |
| 15. Amon. | 15. Simei. |
| 16. Manasses. | 16. Jóep. |
| 17. Esekias. | 17. Júda. |
| 18. Akas. | 18. Jóhanna. |
| 19. Jóatam. | 19. Hresa. |
| 20. Ósias. | 20. Sóróbabel. |
| 21. Jóram. | 21. Salatiel. |
| 22. Jósafát. | 22. Neri. |
| 23. Asa. | 23. Melki. |
| 24. Abía. | 24. Addi. |
| 25. Róbóam. | 25. Kósam. |
| 26. Salómon. | 26. Elmódam. |
| 27. *Davíð.* | 27. Er. |
| | 28. Jóse. |
| | 29. Elieser. |
| | 30. Jórim. |
| | 31. Mattat. |
| | 32. Levi. |
| | 33. Simeon. |
| | 34. Júda. |
| | 35. Jósep. |
| | 36. Jónan. |
| | 37. Eliakim. |
| | 38. Melea. |
| | 39. Mainan. |
| | 40. Mattata. |
| | 41. Natan. |
| | 42. *Davíð.* |

Hvað sýna nú ættartölur þessar? Fyrst og fremst sýna þær það, að báðir þessir menn, Mattheus og Lúkas, hafa talíð Jesú Krist Jósepsson. Eða hvað átti þeim að ganga til þess, að rekja ætt Jesú Krists í gegnum Jósep, ef að þeir hefðu trúað því, að guð hefði átt hann með Maríu? Jósep hefði þá ómögulega getað átt þar nokkurn hlut að máli, en svo var líka annað, sem kom þeim til þess, og það voru spádómarnir gömlu. Þessi frelsari, sem Gyðingar áttu von á, átti, að sögn spámannanna, að vera kominn af Davíð. Nú var ómögulegt að koma því saman, að Kristur þessi væri af Davíð kominn, ef að guð hefði átt hann þegar heilagur andi "yfirskygði Maríu." Það varð því einhvernvegin að basla upp á söguna. Ómögulega mátti gera spámennina að ósannindamönnum. Þeir höfðu sagt þetta, að Kristur ætti að vera af Davíðs ættlegg. Þegar því að guðspjallamennirnir voru að sanna að hann væri af Davíðs ættlegg, þá urðu þeir að sleppa hugmyndinni um það, að hann væri guðs sonur. Nú fara þeir innblásnir af andanum að setja upp töfluna, en þá sést það, að hvorugur hefir vitað af öðrum, því að annars hefði þeim borið saman. Þá kemur það, að hver postulanna lýsir annan ósannindamann.

Mattheus segir að Jósep sé Jakobsson, en Lúkas neitar því, og kallar hann Elison. Mattheus heldur áfram og segir, að afi Krists hafi heitið Mattan, en Lúkas segir að hann hafi heitið Mattat. Forfaðir Krists í 4. lið segir Matth. að hafi Elúð heitið; það segir Lúkas helbera vitleysu, og segir að hann hafi heitið Levi. Og svo úr því kemur þeim ekki saman um eitt einasta nafn, alt upp að Davíð, nema þá tvo að eins, Sóróbabel og Salatiel.

En svo er annað. Mattheus telur 10 liði frá Kristi til Sóróbabels; en Lúkas lýsir það ósannindi, og telur það 19 liði. En svo þegar Salatiel sleppir, þá kemur þeim úr því ekki saman um eitt einasta nafn. Annar segir að faðir Salatiels sé Jekónias, en hinn segir að hann hafi Neri heitið. Þá segir Mattheus, að Kristur sé kominn af Salómon syni Davíðs, en Lúkas þvertekur fyrir það, og segir að hann sé kominn af Natan syni Davíðs. Og svo kemur þeim heldur ekki saman um það, er Mattheus segir að eins 26 liði frá Kristi til Davíðs, en Lúkas telur þá 41.

Svo halda þeir báðir áfram upp til Abrahams. Þar hafa þeir báðir haft fyrir sér einhverja gamla ættartölu, því að þeim ber þar saman. Þar hættir Mattheus, en Lúkas vill sýna, að hann sé þó meiri ættfræðingur, og heldur áfram ættartölunni frá Abraham og upp til guðs. Og þar kemur hann fyrst innblæstrinum að!

Þegar vér nú þarna höfum fyrir oss ættartölu Krists í beinan karllegg mann upp af manni, þá getum vér gert fljóta ágiskun um aldur mannkynsins á jörðunni. Það hefir líka stundum verið gjört, en þá hafa guðfræðingarnir oftast hækkað reikninginn, og farið þá eftir tröllaæfi forfeðranna gömlu, sem ritningin segir að hafi orðið þetta 500—900 ára og þar yfir. Alt fyrir það geta þeir ekki komið aldri mannkynsins yfir 6000 ár frá okkar tíma. — En ef að vér teldum nú skaplegan aldur manna, og færum eftir ættartölu Lúkasar og gættum þess, að Davíð konungur lifði um 1050 f. K., en frá Kristi til Davíðs voru 42 ættliðir á rúmum 1000 ára tíma; og frá Davíð til Adams eru þá ekki nema 33 liðir, og ætti það að vera tæpur 1000 ára tími. Eftir þessu ætti mannkynið á Krists dögum að vera tæpra 2000 ára. En hvílík hlægileg vitleysa er ekki annað eins!!

Það er fljótséð, að öll þessi ættfæring er bull og endileysa. Það er auðséð, að þeir hafa haft sinn sögukarlinn hvor. Hafa þeir svo skrumað í þá einhverri ættartölu rétt út í bláinn, því að þeir hafa verið vissir um, að postulatetrin vissu ekkert, hvað þeir voru með að fara, og að þeim var óhætt að segja þeim hvað sem var, — bara að þeir byrjuðu á Kristi og kæmust svo einhvern vegin upp til Da-

víðs. Og þeir hafa ekki verið lítið hróðugir þessir sögukarlar, er þeir voru að rekja ættirnar fyrir hinum heilögu, innblásnu guðspjallamönnum.

Þegar nú þriðji maður fer að lesa þessar ættartölur, hvernig í ósköpunum getur hann þá farið að koma þeim saman? Það er ómögulegt, — alveg ómögulegt. Hvernig getur Jósep t. d. verið sonur Jakobs og líka sonur Eli? Það væri gott ef klerkar vildu útskýra það. Eða hvernig getur Kristur verið kominn í beinan karllegg af tveim sonum Davíðs, af þeim báðum Salómon og Natan? Eða hvernig getur Mattheus sagt það satt, að í beinan karllegg frá Kristi til Davíðs séu 26 liðir, ef að Lúkas segir það satt, að það séu 41 liðir? Annarhvor verður að skröka, ef ekki báðir.

Maður getur eiginlega sagt, að það sé að eins eitt, sem þeim komi saman um, en það skrítna við það er, að það er einmitt öfugt við það, sem klerkar hafa eftir þeim, svo að annaðhvort hlýtur að vera, að klerkarnir fara með ósatt, eða þá guðspjallamennirnir. Klerkar segja sem sé, að alt nýjatestamentið kenni að Kristur sé guðs son, en — þeir báðir, Mattheus og Lúkas, eru samdóma um það, að telja ætt hans í gegnum Jósep. Lúkas vill augsýnilega synda milli skers og báru, því hann hefir guðdómlegan getnað í bakhöndinni og segir því að eins, að Jósep hafi verið *haldinn* faðir Krists. Matthias fer fínt í það, og nefnir Jósep *mann* Maríu. Hafi því Jósep ekki átt hann, þá hefir hann ekki verið hjónabandsbarn.

Þegar menn nú líta á allar þessar mótsagnir, sem eru svo bersýnilegar og stórkostlegar, að það er augsýnilegt rugl og skrök, þá er það hreinasta furða, að nokkur heilvita maður skuli láta leiðast til að trúa slíku sem guðdómlegum innblæstri. Mega nú ekki klerkar standa blóðrauðir og skammast sín fyrir þá voðalegu ósvífni, að segja þetta guðdómlegan sannleika, þegar einn guðspjallamaðurinn ber ofan í annan? Hvernig geta þeir litið framan í ærlega sannleikselskandi menn, með þessi ósannindi á samviskunni? Hvernig geta þeir komið fram sem kennarar í siðgæði? Og það sem meira er — hvernig geta þeir feður og mæður, sem farið er að gruna um þetta, hvernig geta þeir falið þessum mönnum börnin sín? Setjum nú svo, að klerkar skirðust ekki við því—menn gjöra svo margt til þess að geta haft atvinnu og eitthvað að borða — en hvílikar brjóstumkennanlegar dauðans rolur eru þeir, sem láta þá teyma sig og fá þeim börnin sín til þess, að fræða þau í þes um "guðdómlegu sannindum," til að vefja þau í neti því, sem fjötrar anda þeirra, hindrar siðgæðisþroskun þeirra og kyrkir sannleiksást þeirra.

# RITVISSA BIBLÍUNNAR.

**Eftir C. B. Waite.**

Niðurlag.

Þá eru vitnin leidd fram og prófuð, eitt og eitt í senn, og verður niðurstaðan sú, að þeir Basilides, Celsus og Papias lifðu á annari öld og er þeim vísað frá sem hinum fyrri. Enn fremur kemur það nú í ljós, að hvorki Apollonius eða Josephus hafa í nokkru riti sínu drepið hið minsta á eina einustu bók nýjatestamentisins, og ekki hafa þeir tekið upp eina einustu setningu úr þeim bókum. Þar eð því engin ástæða var til þess, að kalla þá fram sem vitni, fær sakberi ávítur hjá dómaranum fyrir það, að eyða tímanum með því, að kalla þá fram.

Þá eru eftir fjögur vitni, þeir Clemens frá Róm, Barnabas, Hermas og Ignatius.

Enginn þeirra hafði minst á neitt hinna fjögurra guðspjalla eða nokkra aðra bók eður bréf nýja testamentisins, nema Clemens. Hann hafði getið fyrsta bréfs Páls til Corintumanna. En aftur fundust í ritum manna þessara ýmsar setningar, er líktust setningum úr guðspjöllunum. Málið var reyndar ekki líkt, og setningarnar yfir höfuð styttri en í nýjatestamentinu.

Af þessu geta menn nú dregið þá ályktun, að rithöfundar þessir hafi séð annaðhvort sumar af bókum þessum eða þá aðrar líkar bækur. Sumar setningar eftir Krist gátu þeir fengið í munnmælasögum, en ekki allar, því að stundum segjast þeir hafa þær úr ritum. Þannig stendur í bréfi Barnabasar: "Eins og skrifað stendur: 'Margir eru kallaðir en fáir útvaldir.'

Þetta er nú allur vitnisburðurinn frá fyrstu öld um ritvissu og áreiðanleik nýjatestamentisins. Og hvað ætlið þér að mundi úr því gert fyrir rétti? Auk þess er mjög mikill vafi á því, hver sé höfundur að hverri bók eður bréfi þessara vitna sjálfra. Menn deila um það, hver hafi skrifað bréf Barnabasar, og einnig hvenær það hafi skrifað verið, og eins um hina.

En nú skulum vér taka það gilt, að þessi rit þeirra Clemens, Barnabasar, Hermasar og Ignatiusar séu ekta, og að setningar þær, er þeir hafa tekið upp úr nýjatestamentinu, sanni það, að bækur þessar hafi verið til við lok fyrstu aldar. En hvar er þá sönnunin fyrir því, hver skrifað hafi bækur þessar og hvenær þær voru skrifaðar? Er það ekki öllum ljóst, að þessar sannanir væru algerlega

ónógar, að sanna gildi bókanna í vanalegu deilumáli, þar sem að eins væri um eign að deila ?

Og er það ekki fádæma barnaskapur af mönnum, að ætla sér að byggja eilífa velferð millíóna manna á jafn veikum þræði eins þessum sönnunum ? Að segja, að sannanir þessar séu ónógar, er hið vægasta sem menn geta til orða tekið. En það er með þetta eins og hvert annað sögulegt rit, að sannanir þessar eru ónógar til þess menn leggi trúnað á bækur nýjatestamentisins.

Ef vér nú skoðum sannanir þær, sem felast í innihaldi bókanna, þá getum vér þó farið miklu sterkari eða frekari orðum um þær. Mótsagnirnar í hinum fjórum guðspjöllum eru svo mikilvægar, svo margar og stráðar um þau öll hér og hvar, að það er ekki of mikið sagt, að hvert eitt þessara fjögurra guðspjalla flytji mótsagnir, og þær mikilvægar, móti sjálfu sér og öllum hinum.

Eftir synoptisku guðspjöllunum : Lúkasar, Markúsar og Mattheusar, átti kenslutími Krists að hafa verið að eins eitt ár, og er það vafalaust, að guðspjöll þessi flytja hinar eldri munnmælasögur. En eftir Jóhannesar guðspjalli átti Kristur að kenna á fjórða ár. Eftir ritum Irenaeusar, sem er einhver hinn elsti kyrkjufeðranna, átti Kristur að kenna í tuttugu ár, og vera 50 ára að aldri er hann var krossfestur.

Eftir Lúkasi er Jósep kominn af Natan syni Davíðs, en eftir Mattheusi er hann kominn af Salómon bróður Natans.

Lúkas segir, að Kristur hafi fæðst í Bethlehem, og þegar hreinsunartíma Maríu var lokið, þá hafi barnið verið flutt til Jerúsalem og sýnt þar opinberlega í musterinu. En Mattheus segir, að engill guðs hafi komið til Jóseps í Betlehem, og varað hann við því, að Heródes vildi ná barninu og deyða það. Sagði engillinn því Jósep, að taka barnið og móður þess og flýja til Egyftalands, og gerði Jósep það. Eftir sögn Lúkasar var Kristur opinberlega borinn fram í musterinu, og hefði þá Heródes átt hægt með að finna hann, en eftir sögn Mattheusar áttu foreldrar hans að flýja með hann til Egyftalands. Nú gat hann ekki verið samtímis bæði í musterinu í Jerúsalem og á flóttanum til Egyftalands, og hlýtur því annarhvor, eða báðir, að segja rangt frá.

Í ritgerð sinni um Lúkasarguðspjall, segir Schleiermacher : "Allar tilraunir til þess, að sameina þessar frásagnir, er mótmæla hver annari, virðast að eins vera sjónhverfingar" ; og Schleiermacher var guðfræðingur mikill.

Eftir sögn Mattheusar var Jesús fæddur á dögum Heródesar,

En eftir frásögn Lúkasar, fæddist hann níu árum eftir dauða Heródesar. Og hvernig á að samrýma þetta, að Kristur hafi bæði fæðst á dögum Heródesar og níu árum eftir dauða hans? Það munu fáir reyna til að fá samræmi úr slíkri rétttrúnaðar-speki!

Markús segir, að Kristur hafi verið krossfestur á þriðju stundu, en Jóhannes segir að það hafi verið eftir sjöttu stundu. — Mattheus og Markús segja, að myrkur hafi verið yfir öllu landinu frá sjöttu til níundu stundar, en Lúkas segir að eins, að sólin hafi myrkvast. Mattheus einn getur jarðskjálftans, að björgin hafi rifnað í sundur og grafirnar opnast. En þó að grafirnar opnuðust, þá komu hinir dauðu ekki út úr þeim fyr en eftir upprisuna. Þá koma þeir upp úr gröfum sínum og eru þektir af mörgum. Það er stundum ekki talin nein mótsögn fyrir einn, að segja frá því, sem aðrir þegja um. Þegar því ekki er um meira að gera, en einn hinn voðalegasta jarðskjálfta, og að dauðir menn risu upp úr gröfum sínum og gengu ljósum logum um stræti borgarinnar og hittu kunningja sína, þá ættum vér að trúa Mattheusi til þess, að segja þetta satt, þó að hinir guðspjallamennirnir minnist ekkert á það!!!

Þá eru sögurnar um upprisuna ekki sjálfum sér samkvæmari. Jóhannes segir, að ein kona hafi komið til grafarinnar, Mattheus segir, að þær hafi verið tvær, Markús fjórar, en Lúkas segir, að það hafi verið fjöldi kvenna. Allir nema Mattheus segja, að steininum hafi verið velt frá grafarmunnanum þegar konurnar komu að. Mattheus segir, að þegar konurnar komu að gröfinni, þá hafi komið jarðskjálfti mikill, og að engill hafi komið af himni ofan, velt steininum frá gröfinni og ávarpað konurnar.

Mattheus segir, að þær hafi séð ungan mann klæddan hvítum klæðum, er þær litu inn í gröfina. Lúkas segir, að hvítklæddu mennirnir hafi verið tveir, og frásaga Jóhannesar er í mörgu frábrugðin allra hinna.

Af þessu sést, að Mattheus talar um tvo jarðskjálfta, annan við krossfestinguna en hinn við upprisuna. Ef menn bera nú saman trúverðugleik bóka þeirra, sem allar eru óáreiðanlegar, þá er fljótséð, að Mattheus er óáreiðanlegastur þeirra allra. Höfundur sá minnist á ýmsa spádóma og sagnir úr gamlatestamentinu, sem aldrei hafa til verið, en á öðrum stöðum rangfærir hann, umsnýr gjörsamlega og leggur ranga þýðingu í það, sem sagt hefir verið.

Höfundi þessum er og sérstaklega gjarnt til þess, að sjá missýningar. Þegar hann segir frá manni þeim hinum djöfulóða, er kom út úr gröfum dauðra manna (Matth. 8, 28), þá sér hann tvo, ólma

mjög, en Markús og Lúkas sjá að eins einn. Þegar hinn blindi var læknaður í Jerikó, þá verða þeir tveir hjá Matth.

Markús og Lúkas segja, að Jesús hafi sent tvo lærisveina sína til þess, að sækja fola bundinn og færa sér hann, að ríða á inn í borgina. En Matth. segir, að þeir hafi farið og sókt ösnu bundna og fola hjá henni. Og þegar þeir loks komu með gripina, þá lætur Mattheus Krist ríða báðum í einu (!!): "Alt þetta skeði svo að uppfyltist það, er spámaðurinn segir: sjá, þinn konungur kemur til þín hógvær, ríðandi ösnu og fola hennar.....Lærisveinarnir færðu þangað ösnuna og folann og lögðu á þau klæði sín, en hann steig á bak." (Matth. 21., 5.—7.)

Þetta, að ríða báðum í einu, er íþrótt, sem ekki gera aðrir, en trúðar, en ástæðan til að eigna Kristi þessa list, er augljós. Það var náttúrlega gert til þess, að spádómurinn skyldi rætast. En það var ekki með neinu móti hægt að komast í kring um spádóminn, hann var svo skýr og ótvíræður.

Af öllum þessum sönnunum er það nú fyllilega ljóst, að bækur nýjatestumentisins, og þó einkum guðspjöllin fjögur, sem mestu varðar um, eru allar óáreiðanlegar, ósamkvæmar og ósennilegar.

Hvað hinar ytri sannanir snertir—vitnisburði kyrkjufeðranna—þá er hið vægasta, sem um þær verður sagt, að þær séu alls ónógar. En hvað hinum innri sönnunum líður — innihaldi bókanna— þá eru þær svo fullar af vitleysum og mótsögnum, að fyrir það verða bækurnar ótrúlegar og óáreiðanlegar, ekki einungis sem guðdómlegur innblástur, heldur jafnvel sem söguleg rit; það er ekki hægt, með neinum rökum, að skoða þær öðru vísi en sem þjóðsögur og æfintýri.

---

## UNIVERSALISTAR.

Nafnið 'universalist' er úr latínu komið, og táknar þá, sem trúa því, að allir verði sáluhólpnir.

Margir af hinum elstu forsprökkum kristninnar trúðu því, að allir menn yrðu sáluhólpnir. Einna merkastur þeirra var Origenes kyrkjufaðir í Alexandríu (185—254 e. K.) Út af því risu deilur miklar. Augustinus kyrkjufaðir var harður á móti því, og kallaði þá sem því héldu fram, trúvillumenn, og eftir baráttu nokkra urðu skoðanir hans ofan á. Heyrðist svo ekki getið skoðana þessara um frelsun allra, fyr en eftir siðabótina og aldrei að marki fyr en á næstliðinni öld. Það var James Relly, sem fyrstur manna kom

fram með kenningar þessar. Var hann einn af Methodistaflokki Whitefields, Calvinskur i anda sem þeir. Í skoðun sinni um útvalninguna fór hann svo langt að segja, að guð mundi sjá svo um, að allir yrðu sáluhólpnir. Af ritum hans snérist maður einn að nafni John Murray, og varð höfundur flokks þess sem síðan er nefndur: "Universalistar." Reyndar höfðu þeir Mayhew og Chauncy frá Boston prédikað þessu líkt um miðja öldina.

Murray kom frá Englandi og lenti í Ameríku 1770, og stofnaði hina fyrstu universalistakyrkju í Glouchester, Mass., árið 1779; varð hann svo prestur við kyrkju eina í Boston 1793, og var það til dauða síns, 1815. Fylgdi hann skoðunum Rellys, að menn væru útvaldir til eilífrar sælu þegar í þessu lífi, og færu þeir allir til sælunnar bústaða þegar eftir dauðann. Hinir, sem ekki voru útvaldir, áttu að hreinsast í eldi til dómsdags, þá urðu þeir frelsaðir fyrir friðþægingu Krists. Elhanan Winchester frá Philadelphia, kendi, að hreinsunartími þessi væri nálægt 44 þúsund ár. Murray trúði á þrenninguna á sama hátt og Sabellius, nefnilega að guð opinberaði sig á þrennan hátt, en greindist ekki að í þrjár persónur. Hann var þannig fullkominn Calvinstrúarmaður að öðru en því, að hann lét útvalninguna ná til allra.

Þegar Hosea Ballou kom til sögunnar 1790 byrjaði nýtt tímabil í sögu universalista. Hann kendi, að í öðru lífi væri engin hegning fyrir aðrar syndir en þær, sem framdar væru eftir dauðann. Alþýðu féll betur kenning þessi, en kenning Murrays, og óx flokkur hans mikið. Þó voru nokkrir í flokknum, er héldu fast trú sinni á hegning eftir dauðann fyrir syndir drýgðar í þessu lífi, og þeirri skoðun heldur flokkurinn enn. — Fáir munu þeir úníversalistar, ef þeir eru nokkrir, sem trúi því, að allir menn verði hólpnir strax eftir dauðann.

Kenningar universalista byrjuðu þannig sem Calvinstrú, en hafa með tímanum alveg breytst, og eru nú orðnar því nær alveg eins og kenningar unitara. Eins og í öllum trúardeildum eru þar tveir flokkar, annar afturhaldsflokkur, en hinn frjálslegur, og fer hinn síðarnefndi óðum vaxandi.

Árið 1803 tóku þeir saman játningu sína; var þá Murray lifandi og ber játningin vott um, að þeir hafi verið að samlaga hina gömlu og nýju trú. Þrjár helstu greinar hennar eru á þessa leið:

1. gr. Vér trúum, að heilög ritning, hið gamla og nýja testamenti, innihaldi opinberun guðs, skyldur, laun og ákvörðun manna.

2. gr. Vér trúum að guð sé einn, og eðli hans kærleikur, opin-

beraður í drottni Jesú Kristi, fyrir hinn eina heilaga anda náðarinnar, sem að lokum muni gera alla menn heilaga og sæla.

3. gr. Vér trúum að heilagleiki og sönn farsæld sé óaðskiljanlega samtengt, og að trúaðir ættu að keppa eftir reglusemi og fremja góð verk, því að þessir hlutir eru góðir og ákjósanlegir.

Hvað biblíuna snertir, þá eru skoðanirnar mjög víðtækar. Hinir ströngustu hafa lengst af skoðað hana guðs óskeikanlegt orð, en hinir frjálslyndari, sem einlægt hafa verið í meiri hluta, og einlægt verða fleiri og fleiri, skoða hana sem safn af framhaldandi opinberun og þá skeikula og ófullkomna. Alment neita þeir þrenningunni, og trúa því, að Kristar hafi maður verið, en skoðanamunur er, að hve miklu leyti hann hafi verið guðlegum gáfum gæddur.

Hvað lífið eftir dauðann snertir, þá trúa þeir, að þeir, sem ekki eru nægilega hreinsaðir hér gegnum þrautir og þjáningar, þeir eigi fyrir höndum, að hreinsast í öðru lífi.

Stjórnarfyrirkomulag þeirra er að vísu nokkuð svipað og hjá Congregationalistum, en þó ekki alveg eins; líkist einnig að sumu leyti Presbyteriönum. Æðsta úrskurðarvald hefir "General Convention"; mæta á þingi því fulltrúar frá ríkjaþingunum (State Conventions). Á þessum ríkjaþingum mæta frá söfnuði hverjum presturinn, tveir fulltrúar og einn fulltrúi fyrir hvert hálft hundrað, þegar safnaðartalan er yfir 50 manns.

Universalistar eru algerlega amerikanskir, þar sem að eins tvö smáfélög eru utan Ameríku, í Skotlandi. Árið 1889 voru í Ameríku 721 söfnuðir með 38,780 safnaðarlimum, er áttu nær $8,000,000 í kyrkjueignum. Á sunnudagaskóla þeirra gengu 53,000 ungmenni. Flestir eru þeir í Massachusetts, New York, Maine, Vermont, Ohio og Illinois. Ekki fjölga þeir eins mikið og unitarar nú. Þeir hafa 3 guðfræðisskóla, 5 Colleges, 5 Academies og 7 vikublöð og mánaðarblöð auk sunnudagaskólablaða.

Til samans eru universalistar og unitarar kallaðir: Liberal Christians, hinir frjálskristnu menn. Er sára lítill munur á skoðunum þeirra nú orðið. Hvorutveggja hafa breytt nokkuð skoðunum sínum frá því fyrsta. Í fyrstu byrjuðu unitarar með því, að neita guðdómi Krists, en trúðu á víti og bókstaf. Svo fór bókstafurinn og víti smámsaman og þeir trúðu sáluhjálp allra manna. Universalistar byrjuðu aftur með því, að neita helvíti, en trúðu á bókstaf og guðdóm Krists. Smámsaman sáu þeir, að bókstafurinn gat ekki staðist og guðdómur Krists hafði ekkert að þýða, enda gat ekki staðist heldur og féll svo hvorttveggja úr trú þeirra. Skoðanir flokka þessara nálgast ár frá ári, og má nú heita, að ekki skilji þá annað, en nöfnin.

# LÍFIÐ OG GRÖFIN.

Eftir Jón Kjærnested.

Hvað er lífið? Djúp, sem fáa dreymir
hve dýrðlegt er á lífsins hinstu nótt.
Hvað er lífið? Afl, sem áfram streymir
eftir boði drottins hægt og hljótt.
Hvað er lífið? Ljóssins fyrsta merki,
léttur geisli himin-djúpi frá.
Hvað er lífið? List í drottins verki,
lærdóms-gáta', er enginn ráða má.

Oft finst oss lífið langvinn sorgar-vaka,
ljóssins geisla byrgja harma-ský,
Sorg og gleði sífelt endurtaka
svipir tímans brjósti mannsins í.
Stundum glóir gleðin skært í barmi
og gullnum rósum klæðir lífsins veg.
En stundum tindra tár af ljósum hvarmi,
tíðin er svo misjafnt breytileg.

Hver er læknir — læknir þeirra meina,
er löngum nísta hjartans æðar hart?
Það ertú geigvænt grafardjúpið eina,
er geymir þögult næturmyrkrið svart.
Þú sýnist grimt, en geymir þó hið besta,
er gleðisnauðir öðlast getum vér:
Það, að hverfa' og fastan blund að festa,
er fegins-ljóma ber í skauti sér.

## Kaflar úr bréfum til ritstjórans.

*Gimli, Man., 25. Ág. 1895.*

Góði vin............Mjög vel líkar mér Dagsbrún yfir höfuð, síðan þið fóruð að gefa hana út þarna uppfrá, og óska ég henni langra lífdaga.....

*Hallson, N. D., 1. Sept. '95.*

............Mjög er ég ánægður með ritdóm yðar um fyrirlestur séra Fr. Það var sannarlega ekki vanþörf á, að andæfa honum opinberlega, og skil ég ekki í öðru, en að þessi "kritik" yðar opni augun á þeim, sem lesa Dagsbrún, og að þeir verði nokkuð stirðari í taumi eftirleiðis .... .......

*Mountain, N. D., 4. Sept.*

Kæri vin............Ég hefi lengi furðað mig á því, að þú skyldir ekki svara öfgum og ósannindum prestanna. Ég var farinn að halda, að þú þyrðir ekki að eiga við þá, en nú sé ég að þú ert kominn á stað, og líkar mér vel, og mætti þó held ég taka fult svo djúpt í árinni sumstaðar...... Halt þú bara áfram í sama horfi...........

[Vér erum þessum heiðruðu bréfriturum þakklátir fyrir hlýleg ummæli um Dagsbrún, og skulum framvegis reyna eftir fremsta megni að verðskulda þau. — *Ritstj.*]

## TIL MINNIS.

Kaupendur hér í bænum, sem ekki hafa þegar borgað oss Dagsbrún þ. á., vildum vér biðja, að gjöra það svo fljótt, sem ástæður leyfa.

Eftirfylgjandi menn hafa góðfúslega lofað, að hafa á hendi útsölu og innköllun fyrir DAGSBRÚN hver í sínu bygðarlagi :

Minneota, Minn.:
Mr. G. A Dalmann,
Hallson N. Dak.:
Mr. Thorl. Thorfinsson.
Mountain, N. Dak.:
Mr. Björn Halldórsson.
Mr. Br. Brynjólfsson.
Pembina, N. Dak.:
Mr. B. F. Jósafatsson.
Spanish Fork, Utah :
Mr. Einar H. Johnson.
Seattle, Wash.:
Mr. Gísli Sæmundsson.

Victoria, B. C.:
Mr. Ásgeir J. Lindal.
Tindastóll, Alta :
Mr. St. G. Stephansson.
Selkirk, Man.;
Mr. Baldvin Helgason.
Westbourne, Man.:
Mr. Ingimundur Ólafsson.
Gimli, Man.:
Mr, J. P. Sólmundsson.
Húsavík, Man.:
Mr. Stefán Ó. Eiríksson.
Fleiri innköllunarm. verða augl. síðar.

Kaupendur vorir geta því greitt andvirðið, annaðhvort til þessara ofangreindu manna, eða sent það, í *Registered Letter* eða *P. O. Money Order*, beint til **M. Pjeturssonar,**
P. O. Box 305, Winnipeg, Man.

Munið eftir því, að vér gefum nýjum kaupendum að Dagsbrún fjögur smákver, eftir ágætis höfunda, þýdd á íslenzku. (Sjá Dagsbrún, Nr. 7).
Sýnisblöð send ókeypis hverjum sem þess óskar.

Haldið þér ekki að frændur yðar og vinir á Islandi hefðu gagn og gaman af að lesa Dagsbrún ? Að eins 75 c. árgangurinn heimsendur til Ísl.

Gefið út af Únítarasöfnuðinum í Winnipeg.
Ritstjóri : MAGNÚS J. SKAPTASON.
538 Notre Dame Ave.
Féhirðir og afgreiðslumaður : MAGNÚS PÉTURSSON.
601 Ross Ave., Winnipeg.

HEIMSKRINGLA PRTG. & PUBL. CO.